Liggur snaudur Drekinn daudur, dýngiann stærsta, gullsens hiá i haudri lá þar honum næsta.

Svefn hiá gulle, fremdar fulle, feck ad reina, aftur vaknar indiss saknar eidir fleina.

Aud vid skilde áfram villdi enn nú gánga, þar i sókma þennann tíma þund-ur spánga.

Nockur dægur Fylkir frægur fram gieck leingur, komst úr molld á miúka folld, hinn mædde Dreingur.

Sól uppliómar sínum Blóma, siá-legt haudur, Blómstrenn væn so vída græn og vidurenn raudur.

Endurnærest i lag færisk epla neytte, uppsprettanna edlid sanna, allreins veitti.

Sier laufskála Bor Yggs Bála bióst ad smída, þar um stunder lausa-lunde leitik ad bída.

Þeckti eige Odda sveiger yggiar Svanna, frá honum núna frædid búna ferdum annar.

**Nordri** Javfur og Riftinn gavf-ug nodru sala, syrgia arfa þann hiant þarfa og þrátt um tala.

Drottning kiend til **Sifiar** sendi, sú kom þegar, sonar lát med sárum gráte sagde og trega.

**Sif** nam ansa græders glansa Grund: hann tórir, veit þó ei hvar fleina fleiger finst hinn stóri.

**Blindvid** finna fliótt skal vinna og freitta leita, minn er vinur valla linur vidur skeyta.

**Lit** nam finna, lofn tier Svinna lindans rauda, aller hallda eidir skiallda Agnár daudann.

Lifir veit eg lausa Beiter lióst er eige, sig hvar helldur heidre selldur heims á veige

**Blindvids** ræda fer ad fræda folldu seima, numinn er sá nadda ver til nedri heima.

Þadann leysa og þángad reisa þaunden skeyta, bágt mun ollum Konum sem Kollum kaunskie veita.

Þar fæst eingenn þó af meinge þar vid fitle gieti þad ecke geira hnecker **Gloi Litli.**

Hiá **Svartalfa** sonum og **Biaalfa** sat i Jordu, sio-ár nærdur, señ utlærdur, sá mun giordur.

Nær

Nær sem vorar þá mun þora þesse Dreingur, mig ad finna, í folld sig kynna, fær ei leingur.

Ferd mun byria, frek þott yria, falle og hríder, á esse læria Agnar sækia um þær tíder.

Eidir rauna lífgiof launar linda álfur, manninn eggia margt tilleggia mun eg siálfur.

Sif fær glede sudra riede senn frá keira, Drottníng tiáde treyu lád af tale þeirra.

Miked batnar Sorg og Siatnar Seima giefne, hætter Bragur hvorge fagur hvílist efne.

**Mæd líoodum gære ad godum grídum lyndi, siæd hroodur fære froodur fríd og índe.**

Prologus 7tus.

Þó ei dylie þánkinn nytur þulu líóda, þá er vilienn valla einhlítur vísur bióda.

Bøls þó parta burtu ræki er bætte, skadann, samt er margt sem mig ásæker mein alldradann.

Dofnar minne dvínar kraftur ad dikta liódinn, mædest sinne miøg er tas-tur mælsku gródinn.

Samt vid Agnars Søgu á qvølld-inn sit i nádum, þiggia Bragnar þul-tys giølldinn því med dádum.

Heims vid Becki hvørgi eirum hallar døgum, jeg mun ecke yrkia fleir-um út af Søgum.

Flestir vilia giefist grid sem grimd-er spara, " gott er ad skilia Verøld " vid, og vel ad fara."

## Cap. VII:um.

Nu til sagnar froska far, ei ferdum lógie, hvílldist Agnar þreittur þar, hiá þickvum skógie.

Dagana marga dofna mein med dúrum sefur, sier til Biargar eplinn ein af eikum hefur.

Þíngest sinne þrauta kallt vid þetta tiódur, hafde i minne Eingland allt sem Asa og Módur.

Því bragdfolur þar á láde þetta rómar, harma tolur hafa náde hristir skióma.

Giæfann fríða gleimir mier eg geing ein mana, æfinn stríða efter ser á innu grana.

Mannsins þegar liómar líf i líst og príde, heftist vegur kiemur kíf og kalldar hríðir.

Slíkt eg þecke það ópríddi þá var heima, minne ecke móður hlíode i mar nam sveima.

Hiartað stríða hresse sig i hvorium vanda, giæfann fríða flitie mig til fóstur-landa.

Síðann náde sofna dúr þó sorga kiende, værder þáde Tigge trúr á tví-blindz qvendi.

Blessuð skein þá bedia glens um Biarkir hæða, vaknar reinir ríkur mens og ried sig klæða.

Lítt við tafde lund ómiúk, so leite að gotum, mittið vafde vænum dúk á víga fotum.

Sverðið góða hafði i hende Hyrð-ir plóga, á ońu móða og þar vende um eideskóga.

Að kletta bygðum kom um síð, þar Kona stendur, mællte i Trigðum mier þú hlíð að manndóm kiendur.

Darra Yggur Dóttur minne búga verdur, á golfe liggur særd í sinne Seima gierdur.

Jnn mátt gánga eckert saka á þig madur, þú skallt fánga laun ólaka listahradur.

Jáord greiner diggur dreingur dýra íþrótta, í folldar bein med frúnne geingur fiærre ótta.

Lá med hliódum ein þar inne ángrid skiekur, houdum gódum halurenn svinne henne átekur.

Leysast náde Linda vor so líkar Spracka, Modir náde bauga Bor med blídu þacka.

Verdur ertu Vísir þrekinn vel sig metur, ad hier siertu af mier tekinn öllum betur.

Vín og álldin veitte ad neyta Vísir Svanne, oturs giallde ei vill skeyta i þeim Ranne.

Spurde ótregur spiallda rist med spekt úrskurda, **hvar er Jeg i Heimi ad vist?** mig helldur furdar.

Tveggia Landa Rikess Rád med riettu hafde, Beggia handa linna lád, minn luckann vafde. Svar-

Svarar qvendi Seima Balldri sök ei barstu, numiñ Bendir Baugs med galldre burtu varstu.

Þessi er stærre heimur hinum, hier ad víkur, líka stærre Glyggs med ginum gulle ríkur.

Hier rádandi heitir **Skieggur** hann á Dóttir, þier galandi galldra Seggur grimmur þótti.

**Birda** heitir Hilmer vill þú hana eigir, ad sínu leite øllum ill, þad af henne seiger.

**Skeggi** Gramur er flærdar fullur fridleik brestur, svkka hamur alma ullur allra vestur.

Þig ad sønnu því so reirir þrauta bondum, ad øllum mønnum ertu meiri ofar løndum.

Fullhugadur fróns um stig í fleina messu, vertu madur var um þig hiá Vísir þessum.

Reininn giefur klæda, qviste klóta i ranne, steininn hefur hann þá list ad hilia manninn.

Qvendi þackar sá Bør Siòla sídann qvedur, sender stacka Bráens bóla blídu medur.

 Gieck

Gieck frá Biørgum grunder sliettar Gramur fiáde, dægur mørg hann þolde þietta, þreytu á láde.

Leit um síder breida Borg med blóma mestum fágada, vída freyu Sorg og fegurd bestu.

Gieck ad hlide um gøtu Skard sá geimir maktar, slála vide starsýnt vard á Strák sem vaktar.

Aungvann híru heitre brenner hlid ved tesur, hvarma Tíru eina i Enne aulinn hefur.

Bad Inngaungu þrællinn þarfa Þeingill ríkur, hnúa Taungum hañ þad starfar hurd upplíkur.

Þessum greidde greipar mioll so gied hannz kiæter, Agnar leidde i háa høll fyrer Hilmirs Sæte.

Kappinn framur huga hreśs um Hallar vega, heilsar Gram enn hann tok þessu hæfilega.

Agnar Kappe þar ert þú med þroskann fedra, sit med happe hiá oss nú i heime nedra.

Munda þvitar og græders glódir gledie stilltañ, þú skallt vita á þessar Slóder þig hefe villtañ. Dim-

Dimmum̃ bleckti galldra gollum gap vid Ránar því þig þeckte ædre öll=um under Mána.

Handa Dottur minne mætañ mañ liet sækia, hveite grottu hug mun kiæta Hirdirs mækia.

Vilier þú eige vid mig teingiast, Vísir alinn, á þessum deyge þig skal heingia þrautum kvalinn.

Siegnde **Agnar** orda hvidu Öd=lings frodur, **þvií vil eg fagna ad siña Ydur FADIR GODUR.**

Upphesd mesta er ad festa Ydar Dóttur, giæfu bestrar gierir ei fresta glede þróttur.

Þess eg beide þriú missiri þióni eg sona, hiá mier sneyde i hyriu bire hæglát Kona.

Sídum kynnast þarf eg þínum Þeingill alldinn, ádurenn Lunna eignast dínu **Lík** med falldinn.

So má vera sagde Gramur sit þú nidur, næstur mier til frægda fram=ur fleina vidur.

Spír nú Seggur Sióla ad heite sitt málstadur, nefndist **Skieggur** Bulldu beiter Blacklitadur. D 5 Litid

Litid get nú geimir dáda gaura hallar, hirdinn sat á becke báda blóm-leg valla.

Gul leit drótt med gráum skiegg-ium greinist vera, honum þótte Hilmir af Seggium hvorge bera.

Miög var liótur mens helblindi, i maktar kiænu, eins og sótid andlitz mind, med augunn grænu.

Vísir tiáest var audsien, med víd-um fadme, skieggid gráa hulde hnien, og heilar miadmer.

Eplinn giæda og víned var, hiá virdum metid, enn einginn fæda önn-ur þar, so um sie gietid.

Nótt um fróned nú kom siena, og nádenn grida, Tigge þióna tvo nam liena, Týr mund rida.

Sofnar Agnar þreyttur þar í Þeingils ranne, aungvu fagnar óhægt var, med índiss banne.

Aptur vaknar álma hlinnr eige gladdur, laungum saknar sinna vina so bágstraddur.

Ovidfelldid allt þar þótti odda stær-rir, sem i elldi eda sóttir ótal bære.

Burtu

Burtu hrinder þrauta þióſke þó úr ſinne, ſie mitt inde ſvefn i Brióſte ſit-ur inne.

Hætte ræda hrundir ſeima: hroodur þigia, mætte giæda munde Beima moodur þiggia.

## Prologus 8us.

Fyrſt mier bannad ecke er, Yggiar vín. ad drecka hier, þad ſkal idia medann má, mier ſo ſtitta dægur fá.

Tønn fyrir jafnann Túngu ſet, ad tala þad ſem huxad giet, ef þad bæreſt út um by, óþægd kynne verda af þvi.

Þvi ſkal hafa fátt um fleſt, forſug dempa ord er beſt, hellſt fyrir þann ſem heime frá, huxar og betra gyrniſt á.

J illum ſtad hann Agnar var, Eing-landz miſte fegurdar, ad leyſaſt þadann lauſa þund, lángade miøg á hvørre ſtund.

Eins frá heime hálum ber, huxa þeim ſem lída hiet, óþægd marga mein-giørdar, þá mikid fátt til ſaka bar.

Þarum ræda i þetta ſinn, þarf ei meir enn hitt tilſinn, ſkrifa i liódum ſkal eg brátt „ Skiølldúnganna Søgu „ þátt.„

Cap.

## Cap. VIII:um.

Aptur seigium Agnare frat, ef þar fólkid hlýdir á, uppvaknadur Alma Tír, allvel sig til Hallar býr.

Hefde ei dúkinn haft um sig, heidurs Kiempann prýdelig, munde hafa meir ad þreingt, mækia vid og heliu teingt.

Gieck i høll þar Gramur sat, og grá/eyt Hird vid epla mat, Ita vordsur i þad sinn, Agnar sagde velkominn.

Lángt ad kemnum laufa ver, láta skal nú efter þier, og sýna drafnar sunnu hlíd, sú er Stúlkann væn og blíd.

Dýrbornasta Dóttur mín, dudud øll med Skrúd og lín, er hier nærre i einum Klett, hiá Alfkonu til menta sett.

Giengde Agnar Gilsa þá, giarnann vil eg hana siá, Brúde filgia bridiur XII, brátt kom hún á Hallar gólf.

Stutt og digur Stelpann siest, Stillir heilsar Dóttur best, málfadmur um mittid nett, miósætt valla og andlitz grett.

Háng-

Hángir Vor á Hoku þar, hnútur stór á Nefinu var, eins og Mere aftann á, álut þó um̃ kinnar blá.

Samt þó bar hún Silke Skrúd, Silfur og glæsta fofners Búd, Agnar stie úr Sæte sín, sídann heilsar Skrúda lín.

Agnar tier vid audargná, Ödlíng vill eg skule þig fá, oll þú fellur oss í gied, aungva hef eg værna sied.

Hún nam ansa helldur stiótt, hiá mier sofdú strax i nótt, árs mier freistinn Agnar qvad, eda meira Kong um bad.

Lofdúng þessu lofa ried, læt eg mier so falla i gied, ad þú Stúlkann allra best, eins mier giefir þennann frest.

Kostinn þúngann kiósa ser, qvol er ad bída eftir þier, mællre hún og másá vann, mannlaus ecki lífa kann.

Ecke greinir framur frá, um fram̃gáng Agnars Þeingil hiá, þar ókiættur þreyde um hríd, þanninn leid ad Brúdkaups tíd.

Leide

Leide eg þadann fialars far, fliótt til Nordur álfunnar i **Nordhymbra** lisstugt Land, lifdu menn vid fridar Stand.

**Blíndvídur** sá Búe Steins, og Bedia hannz fyrir **Agnar** eins báru i sinne þúnga þrá, þad vid Nidia giordu tiá.

J **Undirheima** fardu for, frelsadu þadann hringa Bor, lífgiof skalltu launa um sinn, Losdúngs arfa **Gloe** minn.

Hann qvadst búa Hvaljardar, á heilum deyge bræddann mar, læt i haf sem líklegt er, lagsmenn mínir filgia mier.

Ur **Þorsfiøllum** frá **Þelamørk**, þángad klædder næfra Bork, Seidmenn komu talder XII, til hannz **Gloa** um vedra gólf.

Súda garminn settu á mar, sá var lítill tilshndar, eins rann skipid løg sem land, lángann reistu Skeidar Brand.

**Gloi** tvadde fodur frí, og falløda Jordu Steine i, þá var nockur storma stans, stigu á Skip og lagsmeñ hannz. Upp

Upp i logne undu vod, ódum tekur ád ráſa gnod, frá Einglande um ægers Bug, eins og valur beiner flug.

Margar vikur marenn rann, mialldra Tuns, um hlies flóann, dúkar vinda holdu þó, þar til myrkre yfir fló.

Ohollt var um ægers hil, einginn ſá þar handa ſkil, ſkelld gríma og ſorte blár, ſo gieck það um vikur þriár.

Samt rann Knørenn ſína leid, á ſvortum mar enn hvorge beid, ótal flugu elldíngar, undur meſtu ſáuſt þar.

Þó um ſíder ſeigiaſt kann, ſo ſem dagur þar upprann, og ſo byrti meir og meir, míſings ſliettiſt folldar leir.

Þá var bir um þoſka laut, þar til Lande grænu uppſkaut, rodull ſkein á Biarka Blóm, beittu þángad maſtra lóm.

Seglinn lietu ſíga þá, ſo ſem nærre gieta má, fyrdar eckert feingu grand, feſtu Skeid vid gulann ſand.

Vier ſkutum ſkipe ſkunda frá, ſkrafar **Gloi** og frónid á, fara brátt því **Agnars** er, einhvorſtadar, ad leita hier.

Fiñ skulu efter flóðz við Ørk, slýkum oss um Eiðmerk, einginn nema Agnar má, oss á þessu frone siá.

Liggur þar við lífeð vort, látum eige verða á skort, vorum listum beita brátt, Brognum verde ei ráða fátt.

Atta samann skírir skrá, Skatnar geingu um fróneð þá, einginn skiepna augum með, Ita gat á veige sieð.

Fundu um slóðer Folldar Líím, fyrdar þeir sem treystu á Griim, og þar lycktaun Leir við Svord, líkann nockuð rauðre Jord.

Hnoðuðu samann liimi og leir, lærðer voru pilltar þeir, og so giorðu úr því mann, Agnar lietu heita þañ.

Leirgoð þetta fylldtu frk, fiandakrafte talaðe því, eins og maður eirnenn gieck, Itum með þeir hlóu að reck.

Skunda um síð að Skeggia holl, skein á Gull og handarmioll, liómuðu múrar líka þil, lioðenn víkia Agnars til.

Með óinde ollu þar, Odlíng hiá í Holku var, lióta fæðist Linda hild, leið so frañ að Brúdkaups tíð. Bráð-

Brádlega kiemur Bodsfólkid, brúk-
udu aungvann manna síd, skrimsli ljót
og skielfileg, skundudu þar um hallar veg.

Mikla kiæte Budlúng bar, Brúd-
urinn leidd til Sæteſs var, kalla lætur
Agnar á, Ødlíng skal hann sitia hiá.

Hollenn full af fólke var, sem furdu
lióta áſýnd bar, Gloa frá eg greina
kann, giæfulegur Agnar fann.

Laufa Tír hann liet sig siá, líka
mællte vid hann þá, sendur er eg ad sæk-
ia þig, sástu fordum úngann mig.

Stifta eg mañ i stadiñ þiñ, Stillir
þesse brogd eg vinn, Leyrskraakuriñ
gieck til Grams, enn gunnur i burtu ellda
dañs.

Einginn Kappann Agnar sá, út
um hlidid víkur þá, Gloa med og Gaut-
um Brandz, Galldra listar þiónum hañz.

Leyrmindinn hiá Lofdúng setst,
linda Skulld fær sídann fest, þar so
dreckur óþiód oll áfeingt vín i Kóngsens
holl.

A fiimta qvollde fallda Bil, enn
fyrri ecke sængur til, i þeim Milldíngs
maktar sal, med Agnare leidast skal.

Látum drecka þessa þiód, þar til vík sem **Agnar** tród, gautu Sprund med **Gloa** ad mar, gotann fundu hafmeyar.

**Agnar Gloa** greina fer, gullid á eg noglegt hier, i hellir nærre þángad því, þurfum vitia folldu i.

Bragnar efterskildu Skeid, skundudu aller þessa leid, i folldar sdur foru um sinn, og fundu linna Midgardinn.

Færdu med sier fofners Jord, fram á Skeid og. drón upp svord, eins i húna undu dúk, æsast tekur kiælann miúk.

Ellidi um Iguls rann, ákaflega rása vann, Landid hvarf enn dimmu ad dró, dofnar eige birinn þó.

Þángad víkur þulins far, Þeingils mág af leyr sem var, filgt til sængur frúar er, furda mikil þá til ber.

Sængur stockinn setst hann á, so fiell nidur i parta þriá, Itar siá þar liggia **leyr** og **liím** enn eige tegund meir.

Þar vid ollum brá i Brún byggir Sorg um hyggiu Tún, so **hefur Gloi sagt þar fraa**, Sagann þessu fleyra má.

Gloi síþrir gialfurs mar, grimlegt nida myrkur var, i tuttugu daga þar til þriá, þvínæst byrtir Sionum á.

Alldrei gódann brestur bir, á Búrhvals velldi nú sem fyr, þar til fósturs lítur láð, Lofdúngs Son med allre dáð.

Festu Skip og fóru af mar, fram á leid til Kongs hallar, Afa og Módur fríða fann, feiginn urdu er sáu hann.

Gullid flutt og Giersemar, af gota verdur Hvaljardar, audlegð slíkum Englandz frón, alldrei bar fyrir manna sión.

Veitslann hofst hinn vænsta nú, sem verdur giord á hnikars frú, Sif og Blindvid sækia liet, Siklings Bur med Orma flet.

Giæfann öllum gafst i vil, gledinn blondud krúsar hil, inn þar smaug i Bragna Briost, burtu sídann alldrei dróst.

Þacker Gloi þídar feck, og þeir sem fulgdu ad sækia reck, af feniu verkefeingu nægd, Fylkirs Syni lofudu frægd.

Alldrei Gloi um æsi tier, Ydur vid eg skilia fer, Yggs á Sprunde eda guod, Agnare líkar þetta bod.

Allir þádu ofners bed, endar þañ inn Veitslann tied, nú er batnad Nordra og Avgn, níte eg værd og fell i þøgn.

**Vøku stittir stefia maal, støku qvittir hefia skal, Løkum tærde Tvíblinds fund, tøkum værder þvíi um stund.**

Prologus 9us.

Indi bætir holla hier, hafa nædid meiga, lyndi kiætir, veiga ver, villdi qvædid eiga.

Giæda Vetur Seggir siá, sælldar giedi heita, kvæda letur mikla má, mønnum gledi veita.

Sumra tída mundar møl, mørgum veitir Nióla, sumar hrida burtu bol, Blóminn heitir Sólar.

Naudinn kierir flía frá, feikna kífsins bleika, daudinn gierir ending á, óþægd lífsins veika.

Medann daginn lífsins lier, láned manne giefna, tiedann Braginn fífa fer, fólke þannenn efna.

Gletter Anda fiærre fer, fegurd vyrdar hnióda, Sliettu banda háttinn hier helldur styrdann lióda.

Cap.

## Cap. IX:um.

Reytslaun qvæda soonar sein, sindist þagnar hyggia, veitslann giæda endast ein. audenn Bragnar þiggia.

Agnar riode Blómann ber, Baugtum dýru krýndur, fagnar Móder arfinn er, augum skíru sýndur.

Bragde sínu þróttkur þá, þundur miallar handa, sagde sínum ferdum frá, furdar snialla landa.

Skiallda vigre búnum best, Bragnar hrósa Gloa, vallda sigri mátte mest, meidir liósa flóa.

Agnar fyrdum þiónar þá, þrautum sínum gleimir, hagnar fyrdum sóktañ siá, svofners dínu geimir.

Ríkium stýrir giefne gard, góins vallar blóma, slíkum rírir einginn ard, ægers hallar lióma.

Fridur indi besta bar, blómiñ happa kienner, vidur lyndi þroast þar, þægdenn Kappa spennir.

Tíoenn lídur suna sliótz, fiolner verdann seige, hrídinn bídur spenna spiótz, spillast gierdar eige.

Jra Gramur minnast má, mæte stormur eli, hlýra framur saknar sá, selldist **Gormur** heli.

Hefna lýsir Agnare á, ángrar hlýra pína, nefna fýsir Þeingil þá, þegna ríra sína

**Dungal** heitir Brodda Bør, bistur reidir hnúa, þúnga hreitir orda ør, 18 skeidir búa.

Hundrud hafde 18 Yr, álma þángad vada, undrud krafde sloda fyr, sáka raugar hlada.

Gánga Skeider aller á, Jrskir þreittu Bragnar, ránga leider þottu þá, þiódum sliettu hagna.

Síngur vodinn stormur stór, stendur Knorum slýtir, Springur bodinn falltur siór, sveliar kierum býter.

Urra streinger lánga leid, leidde vindur húna, knurra leinge bordinn breid, bussann syndir núna.

Hafner gódar fundu fék, fognud meiri semur, drafner hlióda ecke ík, eiru þeirra fremur.

Tiallda kuña Ekru á, eckert þiáde saka, skiallda ruñar þreknir þá, þordu náder taka. Vak=

Vakna drúnga svifter síð, síðla bæt-
ur efna, raknar **Dungal** Víser við,
víga þrætur nefna.

Sendi Recka Tiggi XII, Tiorgur
nýtar skáru, kiendi þecka goens golf,
gautar ríta báru.

**Agnar** finna þegnar þá, þrimu
randa boða, gagnar kynna, Fylkir frá,
frekum Branda voða.

**Agnar** fríður Blóma ber, bisiist
lundur hveita, fagnar stríður veiga ver,
vigra fundinn þreita.

Branda reiða Kappenn qvað kuñ-
um sieða stórum, sianda meiða þórum
það, þietta meðann tórum.

Seigið Ira gilldum Gram, gotnar
þeige blíðum, meiga ríra hilldar ham,
hræddir eige stríðum.

Snaudann flæker seiginn satt, sig-
urs geinge ríra, daudann sæker híngað
bradt, Hilmirs meinge Ira.

Aller spialla fáeð frí, feigðar gisla
dróma, snialler valla orustu í, Irar hrista
skióma.

Síðañ geingu þaðann þá, þesser fleina
runnar stríðann feingu Sikling siá, síðann
greina kunna.

Agnar taldur kosta kier, kallar hiorenn reida, fagnar Balldur odda er, Ydur fiere sneida.

Mestur Kappe sinist sá, sunnu vid-ur rínar, hestur happe metast má, makt-inn siidur fína.

Sigra náer alla oss, ógnar mæde hliótum, digra þiáer sleina foss, fárra giæda niótum.

Hrædist eige Kóngur qvad, kugar siirinn haudur, glædist seige þegnum þad, þundar hyrinn raudur.

Agnar deydum fróne frá, falle (kienner draumur) vagna leidum ollum á, unda renne straumur.

Tale hætta níunst nótt, nauda hæg-enn teste, vale kiætta feingu stiótt, fyrd-ar dæginn efter.

Morgnar skiálfa Tiolldinn tier, tal-id branda þrísa, þorna álfar hraustir Hier hlífar varda stísar.

Agnar lætur búast brátt, Brag-na fán sína, magna þrætur sefa sátt, sverdinn bláu skína.

Heima þiggia náder nam, Nord-ri alldinn Sióle, geima Yggiar hlítur ham, hvílu falldinn bóle.

Gloi

Glor fundar Tvíblindz tier, tíum skrídast náde, kióe þundar ólmur er, Ødlíng hlídnast gáde.

Fiolda Stýra hlítur hann, hyg- lun varga tærde, hollda ríra qvernbít kann, konster margar lærde.

Bragna lídur ferdum frá, flýtte múrum hallar, Agnar strídur þurfte þá, þióna dúrum valla.

Hinir æda bister brióstis, biria hrid- er skiallda hlinir slæda ellda óss, ólma lídir hallda.

Síga samann fylking fer, fólkid særet digra, víga samann Agnar er, einskis fære sigra.

Hardar renna skífur fliótt, fossum blódid dundi, bardar kienna elid ótt, Yggiar sliódid stundi.

Syrti hrídinn geise grimm, glansar orinn hvesta, syrdti lídinn darra dimm, dríkann fiore besta.

Undur flestu þróast þar, þrotenn giste fridur, fundur mestur víga var vallar hriste sidur.

Oddar Jálma Skiallda Skord, skuf- udu rendur hardar, broddar fálma hrídinn hord, blackar stundur jardar. Fley-

Fleyri Jra þiáde þá, þrymgun rande stóra; meire sijra fremdum fá, frægre Branda þorar.

**Agnar** ridur frægur fram, Fylkir kiendur happa, þagnar lídur daudans dam, druknu fiendur Kappa.

Siegnum Herinn frægur fór, fleina dogginn bleitir, þegnum kierinn stiku stór, stále hoggenn veiter.

**Leiptur** granda virdum vann, víga undur hroktu, sneyftur fianda kraftur kann, kúgast sundur floktu.

Glumdi Hiorinn Ekru á, ecke forlar kosum, rumde dorinn þúngur þá, þiódinn snorlar nosum.

Gilldann merkiss hitte hal, happa þannenn snaudann, trylldann verke skióma skal, skrifa manninn daudann.

Linna ranna sendir senn, segge britia báde, sinna manna **Agnar** enn, aftur vitia náde.

Falla merkid Sióle sier, sigur testir skilia, valla verkid fleina fer friálsum efter vilia.

Vidur riette fylking frijl, fyrrist kierinn' vande, bidur þiette orustu i, allur herinn stande.

Gloi

Gloí eira minstu má, mætur spennir álminn, sloi dreyra þroast þá, þeger grennir hiálminn.

Þegna felldi víga ver, vondinn reidde sára, slegna hrelldi otull er, unda freydde bára.

Merki Agnars bistur bar, Bersi heitir risin, verki fagnar þrymu þar, þegnum veiter slisinn.

Hríslubust blossar Sigtýrs senn, sendu naudir meingi, gvíslubust fossar unda enn, æde raudir leinge.

Agnar mestur vinna vann, veikinn under sunnu, gagnar bistur hernum hann, holldar gru der runnu.

Irar falla skiomenn skar, skatna fáre raudur, mírar allar þakte þar, þiodar nárenn daudur.

Knáer ódu hreiendýrs haf, hrosta giódur spardist, fáer stodu Irum af, Odlíng módur vardist.

Vedur Agnar frægur fram, Fylkir líta villdi, gledur Bragna dreyra dam, dolgum bíta skilldi.

Hoggenn greider Þeingil þá, þunnre eider hríngiu, ploggiun sneidir Irskum á, alla meider bríngu. Mundar

Mundar bíſte ſpillir ſpar, ſpekta ſígur ſnaudur, grundar hriſtiſt þrominn þar, Þeingill hnígur daudur.

Hina fáa deydde dor, dólga glettu vanda, lina ſmáa eidiſt or, ódur ſliettu banda.

Sióoda groodur. fiærre ſer, fylla bætur rwna, lióoda hroodur ærinn er, illa lætur nwna.

Prologus 10us.

Stundarkorn ef herians horn, hefda jeg i mundum, ſkyllda eg lióđ, ſem lík ar þióđ, leſa á vøku ſtundum.

Lietſt eg fyr, i Beſlu Bir, Bragar hætte frama, laga tídt, um landed frídt, lender þó vid ſama.

Leidiſt fleſt, hvad leinge ſieſt, látum þad ſo vera, eg vil þó nær ødlaſt ró, af Agnari lióđ frambera.

Giæte þad, i góđum ſtad, giefid þægdar auka og ſveiflad ſtigd, úr ſvalre bygd, Sigtírs fornu gauka.

Skíne Sól, um hyggiu hól, hlíuſt manndígdanna, og verme allt, ſo verde ri kallt, vitſku haudred ſanna.

Giæf-

Giæfann best, þeim gagne mest, sem giøra vel i flestu, ødlest nægd, og hugar hægd, hina allra bestu.

Stunda frid, og soma sid, sierhvør efter mætte, varist grand, um vitsku land, vik eg ad Søgu Þætti.

## Cap. X:um.

Potti bid, at Þulins frid, þar sem lauk orustu, herfáng med, og Brá-ens bed, Bragnar ad múrum Þustu.

Lidid fátt, þar fiell i smátt, Fylk-ir siálfur Agnar, Irland hlaut, med skiallda skraut, Skip ótal og Bragna.

Nordri dó, þeim náder bió, nad-da thri hauge, þángad knár, vid kesiu fár, kastade raudum baugi.

Veitslu stark, þvi vera þarf, virda Agnar sæmde, giøfum med, so Brá-ens bed, Bragna skortinn tæmdi.

Javtna spialls, sá Einglandz alls, átte meire hluta, niótur hiet, sá Gilsvik eg giet, Gramur á vagne skuta.

I herferd dó, enn hann var þó, hlyre Nordra riettur, Agnar land, og orma sand, ysir var nú settur.

Einvalldz Gram, i Yggiar haun,
**Agnar** ildir játa, rikte þar, sá rauder
skar, runnur freyu gráta.

**Gloa** liet, med grafníngs flet,
grund veria **Nordhymbra**, med sókn
og vorn, um Sela Tiorn, og salina best
hátimbra.

**Agnars** lád, og ríkiss rád, rodnuls
jafnast blóma, giæsann hrein, i ollu
ein, á honum giorde lióma.

Austra far, um óska mar, ad **Holsetu**
Lande, hlaupi fliótt, og herme
drott, um **Hiorvard** þar rádande.

**Hroks** tók Nid, þeim happa sid,
helldur efter lánga, med hrínga rán,
sem hefdu lán, Hiónaband inngánga.

Dana Jord, med velldiss vord,
Viser fremdar spake, riede þá med heidre
há, **Hrolfur** nefnist **Kraki**.

Fadir hannz, sá fleigir Brands,
fiell vid Svía slóder, **Helgi** sá, sem
hermi eg frá, **Hiorvards** Ommu
bródir.

**Helga** Jód, var hrínga slód,
hana **Skulld** má kalla, af galldra frú,
nam fædast þú, forsjug miog vid alla.

Med

Med Hrolfi var, sú hafliós bar,
hvorium óþeck manne, ad tala um það,
i Tignar stad, trúi eg maktinn banne.
Hiörvard nú, þá fegru frú,
fiste mest ad eiga, sier þar líkt hanns
sinned ríkt, sagdest elska meiga.

Setti Skeid, á humra heid, heitins fodurs líki, mundar snió, ad drofnum dró, drótt og linna síke.

Vel gaf þeim, um hvala heim, hittu Dana vellde, gieck fyrer Hrolf, med garpa XII, gofugum qvediur sellde.

Blídlega tók, þeim Brandinn skók, baud honum þar i sæte, nálægt sier, eñ nadda ver, nú tók þvi med kiæte.

Bad sier hlióds, so míking móds, mætte fá ad stundu, giftid mier, vid Gram hann tier, Grábaks Sala hrundu.

Sister þín, er Skulld sú skín, i skarte sogd ad hálfu, hellst eg vil, þá hadda Bil, hier i Nordurálfu.

Ráde Snot, qvad Ræser mót, reiminn Silki Klæda, kollud var, hún kiemur þar, Kongar vid hana ræda.

Játar Sprund, heim Járna þund;
Javsfur skal so búa, Brúdkaup þar, enn
breste ei par, Bragnar þángad snúa.

Veitslu tíd, so verdur blíd, Vísir
seik **Hiorvardur**, **Skulldar** nú
enn fríðre frú, filgde móens gardur.

Heim á leid, vill hallda Skeid,
hreisdur Ríkis valldi, allteins þar, og
ádur var, Oplíng Skatta giallde.

Kónginn þá, so kalla má, qvaddu
hión med blídu, stigu á Raung, enn
Ráenn saung, raululu vindar strídu.

Komu heim, med sælld og seim,
settist frú i Ríki, Otul var til óþægdar,
ei fannst hennar líke.

Galldra seid, nam hrínga heid,
hellst áslunda seiginn, grim̃ i lund þvi
lasta pund, liet so morg útveiginn.

**Hiorvards** sinne, mál og minne,
mieg var svipad þessu, fødurs líke, Lofdúng
Ríki, laufa saung i messu.

Agiarn slægur, eige þægur, óhlt
þótta madur, drott þó veite, drakons
reite, daufur enn skialldann dladur.

Hura fer, nú hrotta ver, hver hann
skal áleita, Ríke ad ná, sem Rausn er á,
so riedi ótal Sveita.

Eing-

Einglandz veit, um allann reit, orma nægder Stræta, og **Hroars** Nid, þar hallda frid, sem hrínginn sotte ágiæta.

Bauginn þann, eg kalla kann, kiorna eigu mína, giegnde snót, þeim geira briót, gief eg rádid fína.

Sofnum her, ad solltum ver, so komum óvotum, Einglandz Gram i hilldar ham, hier til eckert sporum.

Trolla kin, med galldra gin, giek eg látid fylgia, óvarann, so **Agnar** þañ, unda kiæse bilgia.

Rekia skal, vid ríkann hal, rañann fiandskap forna, heingdur sie, á hædsta tre, hier mun hann ei vid sporna.

Allt mót hlær, þú Eingland fær, unned Brande stinnum, efter þad, mun ótvílad, alla Danmork vinnum.

Sióli gledst og safna qvedst, seggium allra landa, vopna mergd, i fræga ferd, og fákum misings granda.

Vindlandz her, hann velia fer, og vída af Sudurlondum, Austur frá, kom ótal þá, og Finnmarkar Strondum.

Skip ótal, og eins úrval, allravestu Þegna, Risa Troll, og eirneñ oll, ud'ærte má fregna.

Syrpu lid, i Sverda klid, safnast ad Hiörvardi, álfa ætt, og volvu vætt, Vísir á lidid starde.

Fliódid gledst, nær fólk adtredst, fagnar sínum líkum, Volvur hiá sier hafde þá, hiellt hún mest af slíkum.

Siálf bió Skeid, á Solsa heid, sæmdum Skullð fráleyta, med þad lid, sem vel tók vid, og vest i ollu breita.

Gramur þar, á Gistils mar, giorde burtu hallda 50 stór, um fiska kor, fáum Knere talda.

Fleire smá, þar fóru hiá, fagur búnu Skipinn, geispadi mar, því grimmur var, garmur ygldi svipinn.

Vedur grim̃ á drosn og dim̃, drundu i svortum vodum, streingur gol, enn hrína hiól, hefring fiell med Bodum.

Stittist leid, um lísu heid, á leyne vog innhallda, Einglandz þar, sem blóma bar, Biorkenn yggiar spiallda.

Tiolldum slá, þar hædum hiá, i hvilt og skioli kletta, umbúast i einum hast, allt so verdur þetta.

Hof-

Höfdu glaum, vid horna straum, **Hiörvardur** og spracki, svelgdu öl, vid marar möl, menn í úlfa stacke.

Látum þá mi liggia hiá, lodre um grímu eina, **Agnars** til, eg víkia vil, vísna smíde seina.

Stýrde um lád, med dýrre dád, dreifir Jotna Róma, audur frid, þar átte vid, allt so stód i Blóma.

**Gloi** land, med góens sand, giorde tídum veria, eingenn þar, vid þrútenn mar, þorde á fróned heria.

A Gilfa fund, um golners sprund, **Gloi** ferdast náde, fagnar þeim, med sæmd og seim, Sióle er stýrir láde.

Erinde hier, eg á hann tier, Ydur vid til þarfa, þessu tiá, skal Fylkir frá, fást mun nóg ad starfa.

Slægd er duld, ad skruckañ **Skulld**, og skadsolginn **Hiörvardur**, koma ófridz, med ótal lidz, Odlíng rómu hardur.

Vill hier lid, med lítinn frid, láta fyrer sier hníga, Tofra þiód, med þundar glód, þrammar á stigum víga.

 Skullds=

Skulldar lid, hefur saúrgann sid, Seidkonur og Alfar, teingiast heim, um Tronu heim, Troll og fialla þiálfar.

Hvart þier, vill geira grer, og galldra full hanns Qvinna, Skulld hier nú, á skilvings frú, skada folk, og vinna.

Sofnum her, so verdum vier, valla um sinn orþrota, Gramur bad, so giøra í stad, giefast rád til nota,

Lids samdrátt úr allre átt, Ødlíng hafde frægur, drífur her, ad hrínga ver, heil um 15 dægur.

Gloí má sier giefa ei frá, galldra uppleggia klisiar, móte Skulld, enn mín er duld, Mærd því ódum sisiar.

Rímna liood, þaa lastar Þiood, lyndíss mood ureitir, einhver good, mier audar flood, aungvann hniood heim veitir.

Prologus IIus.

Lítt vid sporna fiølners fund, frekt á morgna sæke, giarnann þorna gief eg lund, Gínars horna læke.

Mier

Mier ánæger giefst i grun, gieds
þá væger hlaupid, fyrer Brage fagra
mun, fá i læge kaupid.

Vetrar mundu listing lier, lønd-
úngs fundu kynna, um vøkustund, þá øld-
inn er, ullarpund ad spinna.

Fallda hlída hug ei díl, hátta
smyde skilia, þad mun vída þægdar til,
þeim sem hlída vilia.

Stitte hródur stunder minn, stef-
ia fródur valla, ángurs módur i hvørt
sinn, á i Tiódur falla.

Oska eg lídum Landsens hier, lucku
þídu stundum, þeim er tídum tæra mier,
Trygd á blídu fundum.

Flíta verdur fræde nú, fiærre Merkt-
dum skada, tíminn skierdur Tírs á frú,
tekur ferdum hrada.

## Cap. XI:um.

Soonar vagna framur fer,
fram̃ úr þagnar ládi, þar sem Agnar
Hilmir her, hraustum fagna náde.

So um̃vardar seigia frá, sóknar
hardann grúa, ried Hiorvardur Hil-
mer þá, heiftum svardur búa.

Skullð með aðra Fylking fer, fram̄ um Jaðar mollðar, Illsku þáður edlið ber, Eiturs naðra follðar.

Ekru þekte Illsku lið, óró vakte stóru, skylldir blakte á höllða hlið, hvorge nakter vóru.

Byggðer fríðar brenna þar, Branda hríða gióste, æððu ýða víkingar, vasðer stríða þióste.

Þyrma ei neinum Þeingill bað, þíngðer meinum giallða, Börnenn steinum britia í spað, buðu eins reinum fallða.

Agnar sögu sanna fær, sverða slögum standa, vill á dögum verða nær, vopna lögum granda.

Herenn býr í hilldar slátt, hollur stýrir Bragna, eckert rírir Millðíngs mátt, mál það skírir Sagna.

Skirtu klædast Skiolldúng fer, skrúðann giæða þundar, lundur flæða birtu ber, og blávond æða sunda.

Mittið vefur dírum dúk, dugnað hefur ráða, hannz ei sefur hyggia ómiúk, hreystinn krefur dáða.

Með

Med Fylkingar fliótt útdró, frægur hrínga veiter, Gotar Hrínga macka um mó, mela sprínga reitir.

Agnar besta Blackinn á, birtu giesta oma, fegre siett þad fretta má, farid mest á liomar.

Jórenn nýtur feitur friáls, folld á bítur grænne, Brúrn enn hvítur haus og háls, hvorge lítur vænne.

Jorsins Herra honum ann, hiallz um þverar leidar, somdi bera Þeingil þann, þessum hiera reidar.

Þar vid melinn stodugt stár, stirjar eli digaur, hófa Deli furdu frár, frísar og Mielinn tiggur.

Þegnar leida fákinn framm, fliótt ad Skeida reite, stock á reidar stórann gamm, Stefnings Heida veitir.

Gloi glæste Fylking frí, fór þvi næst útbúa, hvorge dæsta orustu, allra stærsta grúa.

So i ár um fiolners flióð, fara enn skár á márnum, liggur hnár þvi hann sá óð, Herenn grár fyrir Járnum.

Vedrinn milld þá voru og góð, sígs ad hillde strika, flockar gillde fóru um slóð, fagrer skylldir blika.

Lítt ved brá þeim **Leiptur** ber, Lofdúng háum þocka, þegar sáu heiftar her, **Hiörvards** gráu flocka.

Sikling-lióte sier um braut, svip á nióte stiriar, **Agnar** spióte ad skálkum skaut, skiallda rót nam byria.

Hels þar tiódur odlast einn, under blódgum farme, heiftar sióður heilla seinn, **Hiörvards** módur Barme.

Skiellir eli Skavglar á, skrækte hvelid álfa, kiemur Hel med Hrópe þá, Hrugners melir skiálfa.

Hremsu drife drunde i þióð, dreif þad yfir Haudur, undann rife beliar Blód, brusu þrif þá daudu.

Naut ei sólar þiódenn þar, þrítur dóla pína, eins og nióla aldim̃ var, ulfar góla og hrína.

Beggia her af hoglum þá, hrumer gierist álma, einginn verri undur sá, oddar berir Jálma.

Isist Tiarga hid Enska frón, á sier varga kiætta, hruslast margra heila frón, hellst þó kargra vætta. Alm-

Almhrÿd skardar, þiódenn þá, þri-
fur harda skióma, gonduls Jardar got-
um á, geir og bardar hlióma.

**Skulld** med herinn skáhallt ód, skióma verinn **Glói**, henne fer i mót af mód, mækia skier oiói.

I vagne situr glettinn grá, geìse bitur slægda, hennar litur merkia má meingiord flitur nægda.

Skiessum verri skaut úr kló, skaſs uppspenner Boga, er fyrir hverri ein-hver dó, álfur snerru loga.

**Glói** mætir galldra her, geirs má bæter undra, Járn tilbætir eckert er, ad þá giæte sundrad.

Senn vid rosa rómu skúr, rign-er i mosa hristar, sáde posa einum úr, Itar vos því gista.

Hreckia lid i heliar mód, hnie þá nidur á grundu, stód ei vid þeim vopna riod, vantadi fridar stundu.

**Skulldar** fellur þiódinn þar, þraut á skiellur strída, undinn svellur æda mar, út so fellur vída.

Víz8 um Tuna strætenn stór, styrkur súnar giestum, ridlaſt núna fyiking fór, frygg-iu rúma vestu.

Skulld hvatvísa - soddann síer, sókn tilsk:a nauda, um láð valdísa ligg ur her, líet uppríísa dauda.

Olmur bordust eins og ljón, eckert spordu draugar, hinir vordust hels um fron, hríngju mordust Baugar.

Fianda kraftur filgdi hier, furdu skaftur leinge, líke taftur hristi Her, hrottana aftur geinginn.

Gloi hlítur hialldre frá, hleypa níter dáda, sier ad slítir hæð þar hiá, hug ei þrítur ráda.

Veisar dúk þad Sveitinn sier, særing brúkar varna, sie:lu Búkar fallt dauder, folld á miúka þarna.

Einginn leingur upp þá stód, íllsku dreingur Skulldar, hennar feingur heilla vód, í hast og keing ódulda.

Gat ei skotid helldur hún, hauðurs lotid meinge, hýr var brotinn audz fyrer rún, orva þrotid geingi.

Máttar kraftur miog af því, mens er taftur hlídar, Gloi skaftur geirs hregg i, giordi aftur rída.

Skulldar lídur fiell á frón, flestum svída under, hekid sirída hrestu og tión, hier so lída stundir, Agn=

Agnars hróša afle má, ódurínn kióša hlítur, J senn glóša einu frá, er jaungdróša nítur.

Rídur fram̃ i Hiorvards her, hóša gamminn fleingir, orku ramma ó-tal skier, af því skammar meinge.

Under skíum eingenn má, aftra svíun nauda, hafde 10 i hogge þá, hina ófríu kauda.

Ei má tólia af heiftar her, hior sem velia beidde, fossum belia Blódid fer, bláleit helia meiddi.

Drundi skarra holund hvar, hen-ndi Barrann ada, undir narra þrúdu þar, þundar blarra klada.

Samt Hiorvardur hrotta brá, heiftar spardur valla, Einglandz hardur herenn þá, hlaut eggbardur falla.

Enn þó varast Agnars mund, eins og kararlegu, ædrann Hata fór á fund, flock vid hiara tregur.

Skulld vill finna og skrasa vid, skiótt hvad inna gagnar, hana áminna ad herda ófrid, hraustann vinna Agnar.

Þessu nenna Þeingil bar, þá tok renna hin snauda, fylkíng hennar falliñ var, flestra kienner nauda.

Kóngs

Kóngs i lidid komst hún þá, kóf var idid skiallda, vígs á mide mátte siá, menn ei fride hallda.

Gloi deysir galldra víss, gat ei reifad vanda, nockurn veitir hiallta hnífs, hún med leysi standa.

Galldra Ima sóknir sier, sveif til grímann heida, þennañ tímañ Agnar er, yggiar Brímann reida.

Kappenn úngur Brandinn bar, i Bulldu sungnum klide, einn fiórdúngur efter var, af Hrísunga lidi.

Mærenn niorva ædir ótt, oddar horva i skeidir, liómann giorva þrítur þrótt, þar um orva leidir.

Um sig múra vaktan vel, vondir kúra reckar, Enska lúrar hvorgi hel, horna skúrir drecka.

Látum sofa þessa þiód, þreitta ofar láde, svefninn lofar mikla móð, miñid dofa þiáde.

Gioodur froodur Herians hier, hagnar goodu letri, moodur oodur mier so þver, magnast groodur betri.

Pro-

## Prologus 12us.

Enn skal láta alla játa að eg kunne, freyu gráta særa runne, søgur i máta lióð af munne.

Eckert sladur oft málstadur Itum sende, stundum gladur orð mín ende, Ummyndadur af Læknirs Hendi.

Fyrrist mundur følnar lundur fyrst á Bare, óðs þó fundur enn viðvare, á Níundu Siøund hiari.

Heims ósvinna og heistar vinna hugann þiáer, íllt áminnast menn íllspáer, mier vorkynna í neinu fáer.

Stittist Tíðinn stillist hríðinn stifstast friður, þrítur qvíðinn qvølldið viður, kiørna príðinn indið stiður.

Tíð skal níta og fræðe flíta um fagrann Horra, síst ávíta valgauts orra, vaka hlít um Jóðið Norra.

## Cap. XII:um.

Mann at viðu um folldar siður fogur sunna, að Skavglar hvidu skióma runnar, skunda og íðu sára brunna.

Einglandz kátur her med hlátur hrotta tekur, hinum grátur hugfall vékur, hels umsátur og skadinn frekur.

Þá Hiorvardur heist óspardur hialar strídur, vor eggbardur liggur lídur, lista ardur þrotenn ei sídur.

Hvar er núna helblindz rúna, heilla skaftur Skulld orms dúna skord, þinn kraftur, skadann búna hríngs fær raftur.

Hiellt eg trauder hníge daúder hier innlendir, sigurs auder bole brendir, blóma snaudir fyrer þier kiendir.

Agnars sniollum fyrer føllum feikna Brandi, hiálms i gollum hier á lande, hann er af øllum Ovinnandi.

Skulld þá tier, oss skada lier vid skierding ríta, Glói hier sá glópur líta, galldra mier nam fyrer óníta.

Einginn gietur vor nie vetur verid hannz jafne, i galldra leturs sinka safni, særing metur púka nafni.

Jeg kann alldrei grimmum galldri grand fordiarfa, þegar i hialldre hann má starfa, hier med skvalldre til óþarfa.

Samt

